# EFNI.

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga,
gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

13. árg. WINNIPEG, MARZ 1898. Nr. 1.


## Kvala-andvarp, sem verðr að lofgjörð.

Út af 22. Davíðs sálmi.—Eftir séra Valdemar Briem.

---

(Lag: Heyr mín hljóð.)

1. Guð, minn guð, guð, minn guð,
 gleðin þver.
Hefir þú, herra, nú
horfið mér.
Yfirgefinn er eg hér,
ekkert svar eg fæ hjá þér.
Hjálpin þín mér horfin er,
 horfin er.

2. Dag og nótt, hátt og hljótt,
 herra minn,
kalla eg allan veg
uppgefinn.
Eigi nokkurn frið eg finn,
förlast tekr þróttrinn.
Samt eg treysti' á þróttinn þinn,
 þróttinn þinn.

3. Ver mér næst nú, er stœrst
 neyðin er.
Gjöra menn grimmir enn
gabb að mér:
,,Bezt er drottinn bjargi þér,
bezt þú honum treystir hér.''
Þannig mælir heimsins her,
 heimsins her.

4. Heyrir þú, herra, nú?
 heitt eg bið.
Kom þú fljótt, kom þú skjótt,
kom með grið.
Hrœrt ei get eg legg né lið,
loðir tungan góminn við.
Gef mér aftr fró og frið,
 fró og frið.

5. Guð, ef skín gœzkan þín,
 gleðjumst vér.
Þraut og stríð þínum lýð
þakka ber.
Allir lýðir lúti þér,
lágt í dufti syngi hver:
Drottins miskunn eilíf er
 eilíf er.

# Fasta.

Kirkjuárstíðin, sem nú er yfir oss að líða, er vanalega að eins nefnd *fastan*. En fullu nafni heitir hún, svo sem kunnugt er, sjöviknafasta eða langafasta. Það er tíð, sem samkvæmt fornri og göfugri kirkjulegri venju er ætlazt til að sérstaklega sé helguð endrminningunni um hina dýpstu niðrlæging frelarans, píslir hans og dauða. Svo sem orðið „fasta“ bendir á var tímabil þetta upp[illegible] regluleg föstuhaldstíð; það er að segja: kristið fólk hélt sér að meira eða minna leyti frá líkamlegri fæðu á þessum tíma, takmarkaði alla nautn fyrir líkamslíf sitt til stórra muna. Og tilgangr föstuhaldsins á þessum tíma eins og æfinlega, þá er fastað var af trúarlegum ástœðum, var vitanlega sá, að menn með þessu móti skyldi auðmýkja sig fyrir drottni, losa hugann við gœði heimsins, styðja sig í bœnrœkni, verða sem bezt móttœkilegir fyrir hin himnesku gœði, sem drottinn býðr öllum syndugum lýð í náðarmeðulum kirkjunnar. Föstutíð þessi hin sérstaka skyldi vera tíð andlegrar uppvakningar til undirbúnings undir hina fagnaðarríku og sigrihrósandi páskahátíð. Paskahátíðin kristilega varð til fyrst af öllum vorum hátíðum. Kristnir menn tóku þá stórhátíð að arfi úr Gyðingakirkjunni. Kristnaðir Gyðingar héldu þá hátíð eins og feðr þeirra, en aðallega í nýjum skilningi, ekki sérstaklega til minningar um frelsanina úr þrældómnum í Egyptalandi á dögum Mósesar, heldr einkum og síðar eingöngu til minningar um aðalatriðin í endurlausnarverki Jesú Krists, hinn friðþægjanda píslardauða hans og hina dýrðlegu upprisu hans frá dauðum. Þannig er á þeirri tíð bæði talað um krossfestingarpáska og upprisupáska. En mjög snemma var upprisa drottins eingöngu ráðandi í hinni kristilegu páskahugmynd. Og þá varð páskahátíðin auðvitað eingöngu fagnaðarhátíð. Föstuhaldssiðinn tóku kristnaðir Gyðingar með sér inn í kristnina. Í lögmáli Mósesar er engin fasta fyrirskipuð nema á friðþægingarhátíðinni miklu. Það er eftir voru tímatali í byrjan Októbermánaðar. Á þá föstutíð er minnzt í sögunni í Gjörðabók postulanna um Pál postula á sjóferðinni miklu vestr um Miðjarðarhaf, þá er hann var sendr sem bandingi frá Sesarea til Rómaborgar. Þar segir svo: „Sjóferðir tóku þegar að verða hættu-

legar, því þá var og fastan þegar liðin" (Pg. 27, 9). En þó að engin önnur föstutíð væri að guðs boði fyrirskipuð hjá Ísraelsmönnum, þá var mjög mikið um föstur hjá þeim í trúarlífi þeirra, einkum eftir herleiðinguna til Babýlonar. Vér heyrum í dœmisögu Jesú um faríseann og tollheimtumanninn, að þar hrósar hinn fyrr nefndi sér af því frammi fyrir guði, að hann fasti tvisvar í viku; og má af því ráða, að þannig lagað föstuhald hefir verið almennr siðr hjá strangtrúuðum Gyðingum þeirrar tíðar. Og vér vitum líka beinlínis annarsstaðar frá, að þeir föstuðu á mánudögum og fimmtudögum öllum. En auk þess voru meðal annars fjórir sérstakir dagar á árinu ákveðnir til föstuhalds fyrir allan lýð Gyðinga: í 4., 5., 7. og 10. mánuði hins gyðinglega kirkjuárs, sem byrjaði með mánuðinum *nísan* (seint í Marz). Þessir fjórir föstuhaldsdagar voru miðaðir við ýms ógleymanleg hryggðaratriði í sögu Gyðinga, er stóðu í sambandi við herleiðinguna til Babýlonar.

Frelsarinn gaf lærisveinum sínum ekkert föstuhaldsboð, og svo föstuðu þeir þá ekki heldr svo lengi sem þeir voru með honum að líkamlegum samvistum. Á því furðuðu lærisveinar Jóhannesar skírara sig mjög. Því eins og Jóhannes lærimeistari þeirra iðkuðu þeir strangt föstuhald og töldu þann guðrœknissið alveg sjálfsagðan. Svo spurðu þeir þá Jesúm að því, hvernig því véki við, að hann héldi lærisveinum sínum ekki til föstu. En hann svaraði: „Það sœmir ekki, að brúðkaupsgestirnir sé með hryggu bragði meðan brúðguminn er með þeim. En sá tími mun koma, að brúðguminn verðr numinn frá þeim, og þá munu þeir fasta" (Matt. 9, 15). Hann segir hér fyrir, að lærisveinar sínir muni fá yfir sig daprar föstutíðir, en ekki fyrir neitt lögmálsboð, heldr eins og af sjálfu sér, út af raunaatvikum hins kristilega trúarlífs. Í fjallrœðunni gengr hann út frá því svo sem nokkru sjálfsögðu, að hinir gyðinglegu tilheyrendr sínir fasti og gefr ógleymanlegar áminningar um það, hvernig það föstuhald megi ekki vera og hvernig það eigi að vera. En að skipa mönnum að fasta—það gjörir hann aldrei. Ekkert slíkt skylduboð er til í nýja testamentinu, hvorki frá Kristi né postulunum. Föstuhaldið, sem um er getið í fyrstu kristni, var að sumu leyti þannig til komið, að menn tóku þann helgisið með sér úr Gyðingakirkjunni, en að sumu leyti tóku menn

hann upp af persónulegri hvöt andans og þá auðvitað af algjörlega fúsum og frjálsum vilja. Þess er getið í Gjörðabók postulanna (13, 2), að þá er menn safnaðarins í Antíokkíu samkvæmt innblæstri heilags anda tóku það ráð, að senda þá Barnabas og Sál (Pál) í kristniboðsferðina fyrstu vestr um lönd, þá hafi þeir fastað. Og seinna í sögunni um þá sömu kristniboðsferð er einnig tekið fram, að truboðar þessir hafi beðizt fyrir og *fastað* (Pg. 14, 23). Föstuhaldssiðrinn átti þannig augsýnilega heima í kristinni kirkju á postulatíðinni. En síðar fór hann þó mjög í vöxt, breyttist og skemmdist. Þá er leið fram á miðaldir, var farið að eigna honum réttlætanda gildi. Og að því leyti var honum sterklega mótmælt af Lúter og hinum öðrum evangelisku trúbótarmönnum á 16. öldinni. En þau mótmæli leiddu aftr til þess, að föstuhald í bókstaflegum skilningi minnkaði smásaman í löndum þeim, er aðhylltust trúbótina, og hvarf víða fyrir fullt og allt.

Að því er snertir föstutíðina á undan páskunum, þá var hún mjög snemma helzta föstutíðin í kristinni kirkju eins og páskarnir urðu aðalhatíðin. En framan af var hún þó mjög stutt, að eins 40 klukkustundirnar næstu á undan páskadeginum, með tilliti til þess, hve lengi drottinn lá í gröfinni. Á 4. öld eftir Krist hefir hún verið lengd til þriggja vikna. Nokkru síðar verðr það ofan á, að láta hana ná yfir sex vikur. Og síðar var fjórum dögum við bætt, til þess að lengd föstutíðar þessarar yrði fjörutíu dagar að sunnudögum frátöldum, sem ávallt voru skoðaðir sem fagnaðardagar, er ekki þótti við eiga að hafa til föstuhalds. Hugsunin um það, að Móses og Elías höfðu fastað í fjörutíu daga, en þó einkum það, að frelsarinn sjálfr fastaði svo lengi eftir skírn sína, réð því, að tímalengd þessarar kirkjulegu föstu var þannig ákveðin. Hún fékk því nafnið fjörutíudagafasta, *quadragesima*. Og fyrsti dagr föstutíðar þessarar varð þá auðvitað miðvikudagrinn í sjöundu viku fyrir páska, öskudagrinn svo kallaði, sem með nafni sínu bendir til þess, að menn hafi gengið inn í hina löngu föstu, sem hér er um að ræða, með sýnilegum ytri merkjum iðrandi hryggðar og auðmýktar. Því það að setjast í sekk og ösku eða strá yfir höfuð sitt ösku var eldgamall trúarsiðr, þá er stórskostleg hryggð var á ferðinni. Næsti sunnudagr á undan öskudeginum fékk hjá oss nafnið

sunnudagrinn í föstuinngang, og því nafni heldr hann svo sem kunnugt er enn. En næsti sunnudagr þar á eftir varð auðvitað fyrsti sunnudagr í föstu eins og hann líka enn er kallaðr. Og eftir því voru og eru síðan taldir hinir eftirfarandi sunnudagar föstutíðarinnar. Svona varð fyrirkomulag föstunnar á undan páskunum í rómversku kirkjunni, sem forfeðr vorir fengu kristnina frá undir lok 10. aldarinnar. En í grísku kirkjunni, sem náði yfir austrlönd, var föstutíð þessi látin byrja tveim vikum fyrr en í vestrlöndum. Þaðan höfum vér níuviknaföstuna. En þó var ekki heldr þar ætlazt til lengra föstuhalds á þeim níu vikna tíma en fjörutíu daga. Gríska kirkjan tók meira tillit til gyðinglegra helgisiða en hin rómverska. Og þess vegna þótti þar ekki við eiga að hafa föstuhald á laugardögum, hinum gömlu sabbatsdögum Gyðinga. Allir þeir dagar skyldi því (ásamt sunnudögunum) dregnir frá á föstutíðinni. Þannig urðu á sjöviknatíðinni næst á undan páskum að eins þrjátíu og þrír föstuhaldsdagar. En til að fylla þá tölu svo, að fengist fjörutíu daga fasta, var þar eystra ákveðið, að á tveim vikunum næstu á undan sunnudeginum í föstuinngang, er vér nefnum svo, skyldi föstuhald vera í sjö daga. Eða eins og það er orðað í fornriti einu íslenzku*: „þá er níuviknafasta kemr til sjöviknaföstu, skal fasta þrjá daga í viku ok eina nótt.“

Kirkjuleg fasta í bókstaflegum skilningi er nú ekki lengr til hjá oss. Og er engin ástœða til að kvarta yfir því, því svo sem þegar er tekið fram er ekkert föstuhaldsboð til frá Kristi eða postulum hans. En í andlegum skilningi er allsstaðar til fasta, þar sem kristileg alvara er yfir lífi manna. Það er að segja: Menn eru sér þess meðvitandi, að þeir eru af frelsaranum kvaddir til þess að vera sjálfsafneitunarinnar menn. Og að því leyti, sem píslarsögu drottins, eins og til er ætlazt, er á þessari kirkjuárstíð haldið á lofti meðal almennings safnaða vorra, fá menn til sín þá sterkustu hvöt, sem hugsazt getr, til þess að minnast þessarar helgu skyldu, sjálfsafneitunarskyldunnar kristilegu. Og að því leyti, sem menn taka þá hvöt til greina, verðr hin háalvarlega langafóstutíð að föstu í andlegum skilningi, og þar með þá einnig blessunarríkr undirbúningr undir

*) Um boðföstur Þorláks Skálholtsbiskups Þórhallssonar. Íslenzkt forngripasafn I, bls. 236, og Grágás, útg. Vilh. Finsens, II, bls. 251 og 252.

sólhjarta og sigrihrósandi páskahátíð.—Krossgangan og píslarsagan drottins dœmir eigingirnina útlæga úr lífi allra. „Hvað heftir framar hneyksli og synd en herrans Jesú blóðug mynd?“ segir Hallgrímr Pétrsson, sá maðr, sem öllum Íslendingum fremr hefir kveðið föstuna í hinni andlegu merking þess orðs inn í líf þjóðar vorrar.

Úr því að vér á annað borð fórum að tala um föstuna, þykir oss við eiga að nefna enn fleiri fornkirkjuleg föstuhöld. Sjötti dagr vikunnar heitir á vorri tungu föstudagr og hefir heitið svo síðan kristni var lögleidd hjá forfeðrum vorum á Íslandi. Þann dag var auðvitað föstuhald hjá oss í hinum kaþólska sið. En upphaflega var fastað tvo daga í viku hverri eins og hjá Gyðingum, en í stað mánudags og fimmtudags hjá þeim völdu kristnir menn miðvikudaginn og frjadaginn, með tilliti til þess að á hinum fyrr nefnda degi var af prestahöfðingjum Gyðinga og Júdasi ráðin atförin við Jesúm og á hinum síðar nefnda degi var hann krossfestr. Seinna var hætt föstuhaldi á miðvikudögum. —Eftir að farið var að halda jólahátíðina, sem reyndar komst miklu seinna á en hinar stórhatíðirnar kristilegu, komst sá siðr smásaman á, að menn undirbyggi sig líka undir hana með föstuhaldi. Þannig fengu menn þá kirkjuárstíð, sem nefnd hefir verið *aðventan* eða jólafastan. Trúarhugsanin stefndi í þá átt, að menn skyldi helzt undirbúa sig undir allar kristilegar fagnaðartíðir með styttra eða lengra, vægara eða strangara föstuhaldi. Fasta á undan sabbatshelginni vikulegu, föstudagrinn; fasta á undan jólum, jólafastan; fasta á undan páskum, langafastan; fasta á undan uppstigningardeginum, gangdagafastan, í þrjá daga eftir bœnarsunnudaginn svo nefnda (*Rogate*); en því var sú fasta svo kölluð, að þá fór fram hátíðarganga (prósessía) með bœnarsöng; og loks fasta á undan altarisgöngum eins og orð Lúters í fimmta parti Frœðanna benda til. Á undan hvítasunnu sýnist þó ekki hafa verið fastað. Fastan fyrir þá tíð var flutt út í vikuna næstu á eftir og varð þannig ein af hinum svo kölluðu ársfjórðungsföstum, sem á hinu latínska kirkjumáli voru nefndar *quatuor tempora*, sem merkir „hinar fjórar (föstu-) tíðir“. Þessar ársfjórðungsföstur urðu til eftir gyðinglegri fyrirmynd, hinum fjórum ársföstum Gyðinga, sem aðr eru nefndar, og voru ekki fast ákveðnar í rómversku kirkjunni fyrr en undir

lok 11. aldar, rétt um sama leyti og krossferðirnar til landsins helga hófust. Samfara þessum sérstöku föstum eins og öllum öðrum var bænahald, og var þá beðið um blessan drottins yfir árstíðirnar, sem fóru á eftir hverri þeirra fyrir sig: vorinu, sumrinu, haustinu, vetrinum. Því hin fyrsta af þessum ársfjórðungsföstum byrjaði með miðvikudeginum næsta á eftir öskudag, hin önnur með miðvikudeginum á eftir hvítasunnu, hin þriðja með miðvikudeginum næsta á eftir krossmessu á hausti (14. Sept.) og hin fjórða með miðvikudeginum næsta á eftir Lúcíumessu (13. Des.). Hjá oss hétu þessar „fjórar föstutíðir" *imbrudagar*, og það nafn stendr enn í íslenzka almanakinu. Hið latínska nafn *quatuor tempora* varð í alþýðutali hjá þjóðverjum að *quatember*. Ur því gjörðu Danir orðið *Tamperdag*, en Englendingar *Ember days*, og þaðan hafa forfeðr vorir fengið sitt nafn á þessum fornu föstudögum.

## Biblíuljóðin.

(Síðari partrinn.)

(Niðrlag).

Í kvæðinu um „Skírn Jesú" segir frá draumi, sem Jóhannes dreymdi, eftir að hann hafði vísað frá sér hinum gjörspilltu, iðrunarlausu mönnum, er vildu fá skírn hjá honum. Og í þeim draumi fær hann bending um, að hann eigi að skíra Jesú. Sá draumr er óþarfr. En enn þá óeðlilegri eru draumarnir, sem skáldið lætr lærisveinana dreyma í Getsemane meðan stóð á sálarangist Jesú rétt áðr en píslarsaga hans hófst, og þó fremr en allt annað samtal frelsans við þá út af þeim draumum.

Naumast þarf að taka það fram, að nýja testamentis ljóðin þrátt fyrir þetta, sem að sumum þeirra má finna, hafa á sér sömu snilldareinkennin eins og gamla testamentis ljóðin. Og þetta bindi Biblíuljóðanna í viðbót við hitt er svo mikið skáldskaparlegt stórvirki, að það ber ægishjálm yfir allar íslenzku bókmenntirnar hinar á þessari öld. Sum af kvæðunum í þessum parti eru svo fögr og ágæt, að vert er að benda á þau sérstaklega. Kvæðið „Hvítasunnumorgun" er, ef til vill, mikilfengast af öllum. Það endar með átakanlegu, brennanda ávarpi til íslenzku þjóðarinnar, áskoran um það að veita hvítasunnuboð-

skapnum, kristindóminum, hjartanlega viðtöku, helga og styrkja móðurmálið sitt jarðneska, íslenzkuna, með því að láta það verða innblásið af heilögum anda. Seinustu hendingarnar í þeirri áskoran hljóða svo:

„Móðurmálið þitt góða og málið þíns himneska föður
sœtlega sameina þú; syng honum vegsemd og dýrð.
Talaðu tungumál þitt, en tungan þótt geti' ekki lengr,
talaðu tungumál hans; túlka þú stórmerki guðs."

„Jesús á Golgata" er og ákaflega mikið kvæði, enn fremr „Líkfylgdin í Nain". „Páskadagsmorgun" (sem áðr er nefnt), „Jesús og María" og „Heimslok". Í þessu síðast nefnda kvæði birtist rímsnilld séra Valdemars í sínum algleymingi eins og þetta erindi úr því ber vott um:

„Öldurnar tryllast við rokviðrið rjúkandi,
rjúfandi, kljúfandi dimmbláan sjá;
ýmist til himins í ofboði fjúkandi
ellegar hverfandi' í botnlausa gjá.
Bylgjurnar klofnandi, rjúkandi, rofnandi,
reiðar og hamslausar vaða' upp á land,
mönnunum stofnandi meinsemd og grand,
náköldum fingrum um storðina strjúkandi."

Nokkuð annarar tegundar eru kvæðin „Jóhannes skírari í myrkvastofu", „Sakakonan", „Hinn fyrsti söfnuðr" og „Öldu-œsir", sem öll eru ágæt, en líkjast meir gamla testamentis ljóðunum en flest þau, er áðr var bent á. Í einstöku kvæðum finnst oss of mikið af upptalningum samstœðra atriða. Þannig í kvæðinu „Draumr Jósefs", þar sem engillinn er látinn minna Jósef á ýmsa vini guðs, er á undan honum hafi orðið að fara í útlegð: Abraham, Jakob, Jósef, Móses, Davíð, Elías o. s. frv. Eins í kvæðinu „Grikklands goð", þar sem Páll postuli á Aresarhæð er látinn telja sjö þeirra upp með nöfnum og tala nokkuð um hvert fyrir sig. En í niðrlag þess kvæðis vantar það, sem þýðingarmest var í rœðu postulans: hina guðlegu kröfu til allra um að þeir á þeim tímamótum taki sinnaskifti með tilliti til hins yfirvofanda dóms, sem Jesús heldr. Í kvæðinu „Jesús í Nazaret" koma fyrir orðin: feðraslóð, feðrastöð, feðrabœr, feðrabú, feðralið, feðrastorð, feðragrund, föðurland, fóstrbyggð, fóstrláð, fóstrjörð, feðradrótt, feðraþjóð, feðrasveit, feðrakyn—sitt í

hverju erindinu, í upphafi þess með „þú“ fyrir framan. Og niðrlag hvers erindis: „En spámaðr er fár í föðurlandi.“ það verðr ervitt að læra það kvæði utan að.

Við örfá kvæðin gæti lítið eitt verið að athuga í trúarlegu tilliti. En vér sleppum því að fara út í það mál að öðru leyti en því, að nefna þessi kvæði á nafn: „Guðs ríki“ (sem annars er eitt af stórkvæðum bókarinnar), „Dómrinn“, Filippus og svertinginn“, „Hinn miskunnsami Samverji“ og „Kornelíus“.

Í kvæðinu „Jesús á Golgata“ er nefndr „hausaskeljatindr“. það getr verið, að slíkt megi telja skáldaleyfi, en það getr alið þá röngu ímyndan hjá fólki, að aftökustaðrinn í Jerúsalem hafi verið á háum fjallhnúk í staðinn fyrir á hvolhrygg einum, sem að eins lítið eitt var hærri en svæðið í kring.

## það, sem mest er og bezt í bókmenntum heimsins.

Í allra síðustu tíð er út komin bók ein mikil og prýðileg á enskri tungu, sem heitir *Library of the World's Best Literature*. Eins og titillinn bendir á er verk þetta ágrip af gjörvöllum bókmenntum heimsins bæði að fornu og nýju. Bókin er gefin út í New York og er í 30 bindum í mjög stóru 8 blaða broti; hvert bindi rúmar 600 blaðsíður. Sá, sem stendr fyrir þessu mikla ritverki, er Charles Dudley Warner, frægr rithöfundr og bókfræðingr, ásamt þrem meðritsjórum. En í ráðaneyti sitt við fyrirtæki þetta hafa þeir tekið tólf útvalda fræðimenn, alla ameríkanska. Einn þeirra er dr. Willard Fiske, Íslandsvinrinn ágæti, sem nú um mörg ár hefir átt heima í Florenz á Ítalíu. Bókin er einstök í sinni röð og vafalaust eitthvert mesta bókmenntalega stórvirkið, sem unnið hefir verið á þessari öld. Sýnishorn eru þar lögð fram af öllu því, sem frá sjónarmiði útgefendanna hefir bezt verið ritað í öllum áttum heims og á öllum tímum, svo og því, sem haft hefir einhverja mikla þýðing fyrir menningarlíf þjóðanna, þó að það hafi ekki í sjálfu sér neitt sérlegt bókmenntalegt verðmæti eftir þeim mælikvarða, sem gildi rita er nú á tímum metið eftir. Rithöfundum er skipað niðr eftir stafrófsröð og sérstök ritgjörð um hvern

fyrir sig eftir þá menn í nútíðinni, sem til þess hafa þótt fœrastir. Af því að verkið er allt á ensku og aðallega gefið út fyrir Ameríkumenn og Breta, er enskum og ameríkönskum rithöfundum tiltölulega meiri gaumr gefinn en rithöfundum annarra þjóða. Bókmenntagreinir, sem að miklu leyti standa út af fyrir sig, eru teknar til íhugunar í sérstökum þáttum. Þannig t. a. m. babýlonsku bókmenntirnar fornu, bókmenntir Forn-Egypta, Hindúa, Kínverja. Og á sama átt er farið með hinar forn-íslenzku bókmenntir; sérstakr þáttr um sögur vorar eftir William Sharp, annar þáttr um eddurnar eftir William H. Carpenter og hinn þriðji um þjóðsögur Jóns Árnasonar eftir ónafngreindan höfund, líklega Warner sjálfan eða einhvern af meðritstjórum hans. Þá er enn fremr sérstakr þáttr um hin helgu rit gamla testamentisins eftir Crawford H. Toy og annar um nýja testamentið eftir Frederick W. Farrar.

Kaflinn, sem hér fer á eftir, er partr af þessari nýja testamentis ritgjörð Farrars. Vér gátum ekki stillt oss um að snúa þessum parti ritgjörðarinnar á íslenzku handa „Sameiningunni", til þess að lesendr hennar gæti séð, hvers virði biblían, sérstaklega nýja testamentið, er í bókmenntalegu tilliti, ekki að eins eftir dómi Farrars, heldr líka frá sjónarmiði mannanna, sem staðið hafa fyrir útgáfu hins stórkostlega ritverks, er þegar hefir verið um getið. Vér fáum hér ágæta bending um það, að mestar líkur eru fyrir því, að ritverk vor Íslendinga geti fengið verulega þýðing í bókmenntalegu tilliti með því móti, að andi kristindómsins, en ekki andi heiðindómsins, ráði yfir þeim, sem gjörast rithöfundar hjá oss. Og er þá um leið vert að minnast þess, að það var kristnin, sem forðum framleiddi forn-íslenzku bókmenntirnar allar, enda þótt að eins lítið í þeim ritverkum sé beinlínis kristilegs efnis. Hefði forfeðr vorir ekki fengið kristindóminn til sín, er óhugsanlegt, að neitt þvílíkt hefði nokkurn tíma komið fram.

Þess skal getið, að Farrar er hátt standandi maðr í ríkiskirkjunni á Englandi, nú sem stendr *Dean of Canterbury*. Hann er fœddr í Bombay á Indlandi 1831. Eftir hann liggja mörg fram úr skarandi ritverk, þar á meðal „Æfisaga Krists" og „Æfistarf Páls postula".

* * *

Vér hugsum um Krist, drottin dýrðarinnar, í lægingarstöðu hans, hvað hann var, þá er hann hafði svo að segja lagt frá sér hina eilífu guðdómstign sína, minnkað sjálfan sig og gjörzt maðr. Mannsins sonr er hann; en vér höldum því jafnframt föstu, að hann í sannleika sé guðs sonr. En myndi það ekki að mun styrkja þessa ályktan trúarinnar, ef vér veittum því eftirtekt, hve óviðjafnanlega fullkomin orð hans eru, hve víðtæk þau eru og hve gegnum-þrengjanda afl þau hafa í sér? Hann sagði sjálfr: „þau orð, sem eg tala til yðar, eru andi og líf." Jafnvel þjónarnir, sem sendir voru til að handtaka hann í musterinu, urðu svo gagnteknir af hinum hátignarlegu og hrífandi orðum hans, að þeir komu aftr svo búnir og báru móti sínum eigin vilja samsœrismönnunum í prestaráðinu þennan vitnisburð: „Aldrei hefir nokkur maðr talað eins og þessi maðr." Eg á hér ekki við hinn guðlega frumleik opinberana hans, heldr við hina makalausu fegrð orðalagsins, þá hugsanagnótt, sem liggr svo að segja í hverju orði i þeirra óviðjafnanlega einfaldleik. Í öllum bókmenntum heimsins er enginn eiginlegleiki eins eftirtektarverðr. Eg skal þessu til sönnunar ekki taka neitt úr rœðu þeirri, er hann að skilnaði flutti ástvinum sínum nóttina, sem hann var svikinn, „rœðunni með hinu dýrðlega samblandi sorgar og gleði, rœðunni, sem hinir guðlegu leyndardómar skína út úr eins og hún væri alsett gimsteinum", svo sem rithöfundr einn kemst að orði; heldr bendi eg á tvo smákafla alkunna úr prédikunum hans eins og þær voru vanalega. Annar kaflinn er úr fjallrœðunni: „Skoðið akrsins liljugrös, hversu þau vaxa; hvorki vinna þau né spinna; en eg segi yðr, að Salómon í allri sinni dýrð var ekki svo skrýddr eins og eitt af þeim. Ef guð nú skrýðir svo grasið á jörðinni, sem stendr í dag, en á morgun verðr í ofn kastað, hversu miklu framar mun hann ekki klæða yðr, þér trúarveikir?"—Mun nokkur grein þessu lík vera til í öllum undanfarandi bókmenntum gjörvalls mannkynsins? Gæti allir að hinni óvanalegu tilfinning, sem hér kemr fram, fyrir fegrð náttúrunnar. Því bregðr naumast fyrir, að jafnvel hinir miklu og hámenntuðu andar hinnar ágætu Aþenuborgar hafi nokkurn tíma auga fyrir þvílíku. Í öllum ritum Platons kemr hvergi fyrir landslagslýsing nema á einum stað. Það er í upphafi rits þess, er *Fœdros* nefnist. Og það mál lét

svo undarlega í eyrum hins unga manns, sem Sókrates er þar við að tala, að hann lét furðu sína í ljósi og tók því eins og öðru spaugi. Það var Kristr, sem fyrst kenndi oss að finna helgidóm góðleikans í fegrð hluta, sem eru svo smáir, að þeim vanalega er alls engin eftirtekt veitt, og að lesa út úr blómunum boðskap um kærleik föður vors á himnum oss til handa, ritaðan þar með hans eigin hendi. En hve fá og einföld eru þó orðin, og hve skammt leitað eftir líkingarmyndum til þess að framsetja þessa kenning, — kenning, sem framvegis átti að verða og varð heiminum til þvílíks makalauss sæluauka! Og hve víðtæk og varanleg er huggunin, sem hin blíða föðurgœzka guðs er full af, eftir því, sem hér er sýnt!

Sem annað sýnishorn af ágæti Krists orða, þótt að eins sé tekið tillit til búningsins, sem þau eru fœrð í, skulum vér taka dœmisöguna um hinn glataða son. Það er fegrsti kapítulinn í „fegrstu bókinni í heimi"—eins og Renan, hinn frakkneski rithöfundr, kallar Lúkasar guðspjall. Með réttu mætti kalla þetta blómið og perluna meðal dœmisagnanna og fagnaðarboðskapinn innan í fagnaðarboðskapnum. Kafli þessi er minni en blaðsíða að stœrð. Það má lesa hann upphátt á fjórum mínútum. Og þó er ekki unnt að benda á neinn stað, hvorki stuttan né langan, í öllum bókmenntum víðrar veraldar, er hafi haft áhrif, sem ekki verði algjörlega hverfandi, þegar saman eru borin við hin eilífu áhrif þessa guðspjallskafla. Dante og Bunyan hafa snortið þúsundir mannssálna; en þessi dœmisaga hefir verið dýrmæt *milíónum* manna á öllum öldum og af allskonar þjóðum, sem aldrei svo mikið sem heyrðu nefnd á nafn hin miklu skáldskaparrit þessara höfunda (*Divina Commedia* og „För pílagrímsins"). Skáldsöguritin í heiminum geta talizt í tugum þúsunda. En hver myndi geta bent á eitt einasta í öllum þeim grúa, sem nokkurn tíma hafi sýnt sig að því að geta hrifið mann nokkuð nálægt því eins sterklega og svo vítt út um allar álfur og á öllum tímum eins og þessi stutta dœmisaga?

Þessu máli viðvíkjanda er vert að tilfœra vitnisburði þriggja ágætra skáldsöguritara frá vorum mannsaldri, sem flestum öðrum fremr hafa náð almennings hylli.

Fyrstan er að nefna Charles Reade. Hann var mjög alvöru-

gefinn og stöðugr biblíulesari. Ágætlega kunni hann þá íþrótt, að lesa út lyndiseinkunnir manna og láta þær koma fram í sögum sínum. En þann dóm felldi hann hiklaust, að eigi væri neinum vanalegum eða óinnblásnum mannsanda unnt að ná þeirri dásamlegu orðfæð, þeim augnabliks-dráttum, sem aftr og aftr er beitt í heilagri ritning, höfundunum svo að segja óafvitanda og ósjálfrátt, til þess að láta mannsmyndirnar, sem sýndar eru, koma lifandi út fyrir augu vor og blasa við sálarsjón vorri allt að því eins skýrt og vér hefðum persónulega séð og þekkt mennina. Jafnvel ekki hjá Shakespeare finnum vér slíkan undraverðan kraft. Og þó er hjá öðrum rithöfundum þetta íþróttarlega lag á því að láta lýsingarnar verða heppilegar og hrífandi, þessi viðleitni á því, að láta augu áhorfendanna verða fangin af því, sem sýnt er, aðalatriðið, þar sem það í ritningunni er að eins aukaatriði og, ef svo mætti að orði kveða, komið fram af tómri hending.

Annar maðrinn er Robert Louis Stevenson. Hann minnist líka á hina makalausu andagift og skarpskyggni, sem kemr fram í ritningunni, þá er þar er verið að sýna manninn í mönnunum. Og er það auðvitað mál, sem skáldsagnaritari á að vera bær um að leggja dóm á. En þessi eru orð Stevensons:

„Mannlýsingar þessar (biblíunnar) eru svo sem kunnugt er færðar í letr í austrlöndum, en þær lifa í vestrlöndum svo lengi sem heimr stendr. Þær eru upprunnar í einu afskekktu héraði, en ryðja sér braut út um allan heim. Þótt þær sé skrásettar á tíma hálfgjörðs villudóms og menntunarleysis, þá eru þær því meir í hávegum hafðar sem heimsmenntanin nær hærra stigi. Þótt þær heyri til fjarlægri fornöld, þá snerta þær starfslíf og hjartans tilfinningar karla og kvenna og barna í nútíðinni eins og beinlínis væri þær til orðnar þeirra vegna. Eru það þá nokkrar ýkjur, þótt sagt sé, að mannlýsingar biblíunnar sé furðuverk hugsunarinnar?“

Hall Caine er þriðji vottrinn. Hann segir svo nýlega í tímariti einu (*McClure's Magazine*):

„Það er trúa mín, að eg sé biblíunni minni kunnugri en flestir þeirra, sem eru að eiga við bókmenntaleg ritstörf. Engin bók í heimi er henni lík. Og fegrstu skáldsögur, sem nokkurn tíma hafa verið ritaðar, eru mjög fjarri því að geta náð öðru

eins haldi á hugum manna eins og hver sem vera skal af sögum biblíunnar. Að því leyti, sem einhver styrkr í mannlýsingum og rás viðburðanna kemr fram í bókum mínum, þá er hann ekki frá mér, heldr hefi eg fengið hann úr biblíunni. Sagan „Lögsögumaðrinn“ (*The Deemster*) er sagan um hinn glataða son. „Bandinginn“ (*The Bondman*) er sagan um Esaú og Jakob. „Sektarlambið“ (*The Scapegoat*) er sagan um Elí og sonu hans, en í staðinn fyrir Samúel kemr þar fram lítil stúlka. Og „Manarbúinn“ (*The Manxman*) er sagan um Davíð og Úría.“ Eg vildi feginn mega koma með enn fleiri dœmi upp á það vald, sem liggr í orðalagi biblíunnar.

Sé nokkur lexía, sem stórskáldin öll og aðrir miklir andans menn í nútíðinni öðru fremr leggja áherzlu á, þá er það lexían um það, að tign mannlegs lífs sé undir því komin, að menn sé herrar yfir sjalfum sér, hafi lært að þekkja sjálfa sig, hafi taum á tilhneigingum sínum. Það er í raun og veru hin gamla kenning Platons um þrískifting mannsins: manninn, ljónið og hina marghöfðuðu ófreskju. Í þessu líkingarmáli táknar *maðrinn* skynsemina og samvizkuna, sem það er ætlað að drottna með konunglegri ró yfir hinu undirokaða ljóni. En *ljónið* táknar ástríður reiðinnar og yfirlætisins, sem endilega verðr að temja svo, að notazt geti í þjónustu þess, sem gott er, en sé ekki gjörðar að engu. *Ófreskjuna* þar á móti, sem táknar hinar holdlegu girndir, verðr algjörlega að leggja að velli, svo hún geti sig ekki hreift. Er ekki lærdómrinn allr, sem liggr í þessum heimsfrægu líkingum saman dreginn í eitt vers hjá sálmaskáldi gamla testamentisins, — versið, sem með svo dýrðlegri íþrótt stendr höggvið á vestrstafn dómkirkjunnar í Amiens: „Yfir ljón og eitrorma muntu ganga og troða ofan á ljónsunga og dreka“ (Sálm. 91, 13)? Athugum nú hinar háleitu kenningar um sama efni eftir ýms stórmenni í bókmenntaheiminum fyrr og síðar. Óvíd (rómverska skáldið) segir: „Eg sé það, sem betra er, og veiti því samþykki mitt, en eg fer eftir því, sem verra er.“ Dante segir: „Eg krýni mig til konungs yfir sjálfum mér.“ Shakespeare segir: „Eg hefi týnt ódauðlega partinum af sjálfum mér, og það, sem eftir er, er dýrslegt.“ Fletcher segir: „Maðrinn er sín eigin heillastjarna; og sú sál, sem orkar því, að framleiða ráðvandan og fullkominn mann, ræðr yfir öllu lífinu,

öllum áhrifum, öllum örlögum.“ Milton segir: „Umgengni við himinbúana leiðir til þess, að geisli birtist á hinum ytra manni, hinu hreina musteri andans, og gjörir það smásaman sama eðlis og sálin er, þangað til allt er ódauðlegt orðið.“ Henry Wotton lávarðr segir: „þessi maðr er laus við þræl-dómsfjötra vonarinnar um það að geta reist sig við eða óttans fyrir því, að hann kunni að falla. þótt hann sé ekki herra yfir neinni landeign, er hann þó herra yfir sjálfum sér, og þótt hann eigi ekkert, hefir hann þó allt.“ Wordsworth segir: „þetta er hinn hamingjusami hermaðr; þetta er sá maðr, sem allir þeir, sem eru undir vopnum, myndi óska að þeir væri.“ Matthew Arnold segir: „Set þér það fyrir, að vera þú sjálfr, og vit, að sá, sem finnr sjálfan sig, losnar við eymd sína.“ Clough segir: „þú, sem leitar, leitaðu í sjálfum þér, og munt þú finna í steinunum brauð og líf í hugarauðninni.“ Og Christina Rosetti segir: „Guð, herð mig gegn sjálfum mér,—svikaranum með hinni tálsterku rödd, sem heimtar næði, ró og nautn.“ Margt margt fleira í sömu átt mætti tilfœra. En það áræði eg að staðhœfa, að mergrinn málsins í allri þessari guðlegu lífsspeki er tekinn fram af Kristi drottni vorum með einu einasta orði, og það á þann hátt, sem ber vott um nýja frumhugsan, enn þá miklu dýpri en allt hitt og algjörlega óviðjafnanlega. En þetta er orðið drottins, sem við er átt: „Í þolinmœði yðar skuluð þér vinna sálir yðar“ (Lúk. 21, 19)*. Hér er það kennt, að til þess að *vera* verðum vér að *verða;* og vér getum ekki orðið „herrar yfir sjálfum oss“ án kappsamrar áreynslu sjálfra vor, að því auðvitað ógleymdu, sem oss er til þess þrýst með krossburðinum. Hér liggr í einu orði leyndardómr sérhvers göfugs mannlífs. það, sem verulega er eilíft í oss, innsti kjarni tilveru vorrar, liggr ekki fyrir í oss svo sem fengið með fœðingunni, heldr verðr að fást að sem ný eign; vér verðum að ná því, innvinna oss það. (Meira.)

---

## Nýr söfnuðr

er nú myndaðr í Íslendingabyggðinni í Pipestone-héraði. Sú sveit er vestast í Manitoba, sunnarlega í því fylki. Safnaðar-

---

* Í eldri biblíuútleggingunni ensku (frá 1611) er þetta ónákvæmt þýtt. Og þó enn ónákvæmara í sumum öðrum, þar á meðal í íslenzku biblíuútleggingunni síðustu. þar stendr: „Látið stöðuglyndi vera vörn sálum yðar.“ En í gömlu Guðbrands-biblíu stendr á þessum stað: „Eignest mz yduare Þolinmæde Saaler ydrar“, sem er nálega rétt.
RITST. „SAM.“

myndanin var undirbúin síðastliðið haust, þá er séra Jón J. Clemens var þar á ferðinni eins og um var getið í „Sam.“ XII,9. Um myndan safnaðarins hefir til vor komið svo látandi skýrsla: „Hinn 15. þ. m. var fundr haldinn í húsi Kristjáns J. Bardal til að stofna söfnuð. Á fundinum mættu 9 af stofnendum, en alls eru þeir 13. Í söfnuðinum eru 17 ófermdir. Samþykkt var í einu hljóði, að söfnuðrinn skyldi bera nafn *St. Jóhannesar*. Frumvarp til safnaðarlaga fyrir söfnuði hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í Vestrheimi var síðan lesið upp og samþykkt með öllum atkvæðum. Þá var kosin safnaðarnefnd, og hlutu þessir kosning: Kristján J. Bardal, Kristján Abrahamsson, Jón Abrahamsson, Friðrik Abrahamsson og Kristján J. Matthieson.—Að ending var sunginn sálmrinn nr. 617 í sálmabókinni.

Pipestone, 28. Febr. 1898.

KRISTJAN J. MATTIESON.“

---

ALDAMÓT fyrir síðastliðið ár eru nú loksins á leiðinni vestr hingað, líklega rétt að segja komin. Fyrir atvik. sem eigi varð við ráðið, í Ísafoldar-prentsmiðju, urðu þau í þetta skifti eigi prentuð fyrr en í Janúar. Og eru væntanlegir kaupendr beðnir að fyrirgefa þennan leiðinlega drátt. En áðr en menn fá þau skal hér varað við nokkrum prentvillum í ritinu, sem allir ætti að leiðrétta um leið og þeir fá það í hendr: Á bls. 57 stendr „*engir* námsmenn“ í staðinn fyrir „*ungir* n.“; á bls. 70 „siðvenju“ í stað „siðvenjur“; á bls. 72 „svara“ í stað „snara“; á bls. 78 „*bezta* varnarvirki“ í stað „*beztu* v.“ Á bls. 141 er r gluð málsgrein, sem leiðrétt hljóðar svo: „En því mátti hann ekki eins taka *það* upp hjá sjálfum sér *og* lýsingar hins ytra?“ Á bls. 20 stendr: „af ritstjóri *þessa* blaðs“. Í stað „þessa“ á þar að standa „þess“. Og vafalaust er enn fleira misprentað, þótt ekki getum vér nú á það bent.

---



„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada —Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj ), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal Björn B. Jónsson og Jónas A Sigurðsson.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.